Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

30. tölublað | Þriðjudagurinn 23.10.1979 | 8. árgangur | Kr. 200.-



Þessi fundur sem KFÍ og EIK stóðu að sýnir hvers samstaðan getur megnað.

# Samstaða eða sundrung

Þau tíðindi hafa borist um bæinn að fólk vinstra megin við Alþýðubandalagið hyggði á sameiginlegt framboð. Stéttabaráttan hefur hlerað að framboðsmál þessi hafi komist á flugferð í könnunarviðræðum í síðustu viku og hafi svo gott sem náðst samkomulag milli þriggja vinstrisamtaka. Nýjustu fréttir eru þó þær að upp úr hafi slitnað og að Fylkingin hyggji á framboð í Reykjavík.

Kommúnistaflokkurinn mun hafa átt frumkvæðið að málaleitaninni um sameiginlegt framboð í öllum kjördæmum. Ef til þess hefði komið gæfist sósíalistum loks kostur á að taka fullan þátt í stjórnmálaumræðu í sjónvarpi og útvarpi. En framboð í öllum kjördæmum hefur hingað til verið forsenda þess að fá að taka þátt í umræðuþáttum í sjónvarpi og útvarpi. Það er því mikill skaði fyrir öll róttæk vinstriöfl að þetta skyldi ekki takast.

Þetta tækifæri til að kynna skoðanir róttækra sósíalista er það besta sem boðist hefur um lang.

framhald á baksíðu

# Um embættisveitingar

Af gefnu tilefni hafa embættisveitingar verið til umræðu að undanförnu.

Það er ekki ný saga að þægum flokksmönnum sé launað með misjafnlega feitum embættum í ríkiskerfinu.

Vitaskuld er þetta ekki aðeins til að launa flokksmönnum hollustuna heldur miklu fremur til að auka áhrif flokksins. Þetta er síðan mikilvæg stoð undir völd og áhrif stjórnmálaflokkanna.

Þannig "eiga" einstakir stjórnmálaflokkar blátt áfram einstakar stofnanir eða jafnvel heil bæjarfélög. Það er til dæmis alkunna að Alþýðuflokkurinn "á" stofnanir eins og Tryggingastofnun ríkisins og Húsnæðismálastjórn. Ekki sakar heldur að minna á hálfrar aldar stjórnartíð íhaldsins í Reykjavík.

Í þessu efni eru allir stjórnmálaflokkarnir jafn sekir, þeir hafa aðeins haft mis mikil tækifæri til að koma sínum mönnum að.

Það er því hlægilegt að fylgjast með hvernig talsmenn einstaka flokka tútna út af vandlætingu þegar andstæðingur þeirra verður uppvís að slíkri misnotkun valds.

Sem fyrr sagði er þetta ekki ný saga heldur hefir þetta viðgengist í áratugi einfaldlega vegna þess að enginn stjórnmálaflokkanna hefur áhuga á að þessu linni. Þeir vilja að sjálfsögðu ekki svipta sig þessari leið til að auka og efla völd sín og áhrif.

Það er vanalega þagað vandlega yfir leiðum til úrbóta og látið sitja við það eitt að hneykslast um stund.

Ein leið sem fær er hlýtur að felast í því að fleiri taki ákvarðanir um embættisveitingar. Það er að segja að embættismenn verði kosnir af almenningi eða af starfsmönnum viðkomandi stofnunar.

En hvernig er hægt að breyta þessu?

Eins og nú er þá hefur ráðherra síðasta orðið um það hverjir fái störf þau sem hér um ræðir. Að vísu eru til nefndir sem fá umsóknirnar til umfjöllunar en þær eru valdalausar með öllu og ráðherra þarf alls ekki að fara eftir þeirra áliti. Auk þess sem stjórnmálaflokkarnir hafa að sjálfsögðu einnig valið í þessar nefndir eftir pólitískum lit.

Þá getum við hugsað okkur að skólastjóri sé kosinn af kennurum og nemendum.

Tvennt ynnist. Í fyrsta lagi væri útilokað að einstakir ráðherrar gætu deilt út embættum til flokksbræðra sinna. Í öðru

framhald á síðu 2

# Ráðstefna

Einingarsamtök kommúnista, Fylkingin og Kommúnistaflokkur Íslands efna til stuttrar ráðstefnu sunnudaginn 28.10. kl. 14:00 í Þjóðleikhúskjallaranum. Tilgangur ráðstefnunnar er sá að ræða horfur í framboðs- og kosningamálum og komandi kajrasamninga.

Ráðstefnan er öllum opin og eru áhugamenn hvattir til að fjölmenna.



Kröfuganga nemenda og kennara Vélskóla Íslands.

# Aðför ríkisvaldsins að Vélskólanum mótmælt

Fimmtudaginn 18. okt var farin kröfuganga nemenda og kennara Vélskóla Íslands. Tilefni þessarar kröfugöngu eru mál sem hafa verið að grafa um sig í lengri tíma eins og sjá má af tilvitnunum í kröfugerð nemenda og kennara. Upp úr sauð þegar einn af kennurunum sagði upp vegna þess að honum höfðu ekki verið greidd laun fyrir vinnu er hann innti af hendi í sumar. Það er reyndar ekkert nýtt að launagreiðslur hafi dregist og t.d. hefur í upphafi hvers skólaárs vantað nokkra kennara á launaskrá og hefur þeim af þeim sökum verið gert að greiða dráttarvexti af vangoldnum sköttum.

Einnig er áhugaleysi ríkisvaldsins fyrir velferð skólans. Skyldi það ekki hanga saman við lágt mat á verklegri kennslu yfirleitt? Vélskólanám er það nám sem hinn almenni vinnandi maður stundar.

Frá nemendum

Herra ráðherra:

Veist þú hvað Vélskóli er?

Það virðist mikill misskilningur meðal ráðamanna hvað fer fram innan skólans. Þeir rugla honum alveg saman við menntaskólana. Getur þú nefnt dæmi um skóla sem útskrifar nemendur eftir fjögurra ára nám og gerir þá hæfa til að taka á sína ábyrgð vélar og tæki t.d. í skuttogurum, sem að verðmæti eru um tvo milljarða. Yfirvöld virðast hafa týnt Vélskólanum í fjölbrautarskóladansinum. Þangað er fjármagninu ausið miskunarlaust meðan við sveltum.

Allt of margir nemendur eru í hverjum bekk og sumar skólastofur eru svo litlar að varla er hægt að skipta um skoðun þar og engan veginn hæfar til að nota sem kennslustofur fyrir svo marga nemendur sem troðið er þar inn. Skólinn er fullsetinn og á hverju hausti þarf því að vísa nemendum frá sem huga þar á nám. Ástandið í kring um skólann er þannig að nemendur neyðast til að mæta í vöðlum til að geta komist þurrir á milli skólabygginganna slík eru drullan og pollarnir við skólabyggingarnar.

Kröfur:

5. Að kennari sem möppudýr ráðuneytanna eru að svæla í burtu verði tafarlaust fenginn til starfa að nýju, áður en hættuástand skapast í kennslu okkar.

6. Að fleiri kennarar verði fengnir til starfa við skólann

framhald á síðu 2

LEIÐARI

# Hægrisinnuð „vinstri"stjórn

Loksins er ríkisstjórnin fallin og þar með þriðja tilraunin til svo kallaðrar vinstristjórnar.

Þegar litið er yfir feril þessarar ríkisstjórnar hljómar það eins og lélegur fimmaurabrandari að kenna hana við vinstri.

Hvað merkir eiginlega hugtakið vinstri í vitund manna? Þetta hugtak eins og önnur pólitísk hugtök hefur fengið svo harkalega útreið af stjórnmálamönnum að nauðsynlegt er að fara um það nokkrum orðum

Til dæmis hafa nokkrir ungir 19. aldar frjálshyggjusveinar íhaldsins reynt að telja fólki trú um að hugtökin hægri og vinstri í pólitík væru úrelt vegna þess að þau hefðu verið notuð á 18. öld og alþýðubandalagsmenn hafa reynt að telja fólki trú um að þeirra stefna væri vinstristefna.

Hvort tveggja er jafn fjarri sanni.

Hugtakið vinstristefna er sú stefna sem styðst við og tekur mið af hagsmunum hins vinnandi fólks. Vinstristefna er andstæð stuðningi við einkaauðmagn í hvaða mynd sem er.

Ríkisstjórn sem ræðst gegn verðbólgu með því að frysta kaup en leyfa vöruverði að hækka upp úr öllu valdi getur þar af leiðandi aldrei talist fylgja vinstri stefnu.

Stjórnmálaflokkar sem eiga aðild að slíkri stjórn geta heldur ekki talist vinstriflokkar.

Sú stefna að mæta verðbólgu með því að lækka kaupmáttinn er hægristefna. Hún hefur það markmið eitt að tryggja, vernda og auka einkagróða atvinnurekenda

Síðustu ríkisstjórnir hafa svo ekki verður um villst sýnt og sannað að þessi stefna hefur engin áhrif á verðbólguna.

Þessar ríkisstjórnir hafa allar fryst kaup á einn eða annan máta en samt engum tökum náð á verðbólgu Verðbólga á sér nefnilega allt aðrar orsakir en vísitöluhækkanir launa.

Orsökin felst í markmiði atvinnurekenda sem er að ná sem mestum gróða út úr framleiðslu eða sölu á vöru eða þjónustu. Þeir hafa nokkrar leiðir til að auka gróða sinn. Þeir geta gert það með hagræðingu sem hefir aukna framleiðni í för með sér og þeir geta gert það með því að hækka verð vörunnar. Báðar þessar leiðir eru óspart notaðar og sú seinni oftar Og það eru ekki aðeins framleiðendur og seljendur sem eru með í spilinu heldur aragrúi milliliða sem maka krókinn og allir vilja fá meira.

Þar á ofan bætist að framleiðslan er stjórnlaus. fjárfestingar háðar því hvar skjótteknasta gróðann er að finna og enga efnahagsáætlun hægt að gera.

Það er þessi gróðahyggja atvinnurekenda sem veldur verðbólguog hinum óstjórnlegu sveiflum sem koma í efnahagslífinu.

Þetta verða allir sem vilja kalla sig vinstrimenn að skilja.

Það er kominn timi til að vinstrimenn taki sig saman hvar sem þeir eru annars í flokki og vinni að mótun raunverulegrar vinstristefnu og láti þras um hluti sem koma málinu ekkert við lönd og leið.

Við getum á engan hátt treyst á forræði Alþýðubandalagsins í þessum efnum. Alþýðubandalagið er hægrisinnaður krataflokkur sem býður upp á hægrilausnir vandamálanna eins og hinir flokkarnir þrír.

Alþýðubandalaginu er ekki einu sinni treystandi fyrir herstöðvamálinu.

Raunveruleg vinstristefna ræðst að meininu þar sem það er.

Slík stefna er að ráðast gegn gróðabraski atvinnurekenda, gegn þjóðfélagi atvinnurekenda, en vernda kaupmátt launa.

Komandi kosningar eru tækifæri vinstrimanna til að koma sér saman um raunverulega vinstristefnu og vinna henni fylgi meðal almennings þessa lands.




## Dagsbrúnarfundur

Dagsbrúnarstjórnin hefur ekki haldið fundi í félaginu mánuðum saman. en á sunnudaginn var þá var loks haldinn fundur.

Ástæðan fyrir því var sú að forystuna vantaði ályktun um stjórnarslitin. Þess vegna var boðaður fundur í skyndi og hann samþykkti ályktun þar sem skorað var á ríkisstjórnina að sitja áfram.

## Bresku skýrslurnar

Fréttamenn útvarpsins eiga þakkir skildar fyrir fréttaaukan um bresku skýrslurnar.

Skýrslurnar fjalla um njósnir breskra og bandarískra sendiherra á Íslandi og þá aðstoð sem íslenskir stjórnmálamenn veittu þeim við þessa iðju.

Það kemur fram að ráðherrar Íslands sitja leynifundi með sendimönnum annara ríkja til þess m.a. að klekkja á íslenskum stjórnmálaflokki og til að læra af "stóru bræðrum" sínum úti í heimi hvernig eigi að stjórna kapítalísku landi.

Þessir íslensku ráðamenn hafa á ósvífinn máta aðstoðað erlend ríki við að seilast til áhrifa hér á landi.

Það hefur einhverntíma verið hrópað landráð af minna tilefni.

## Um embættisveitingar

framhald af forsíðu

En síðastliðinn vetur var mikið rætt um atvinnulýðræði. aðallega hjá einkafyrirtækjum. Við getum þess vegna skoðað lýðræðið hjá opinberum stofnunum í beinu framhaldi af því.

Það er fyllilega kominn tími til að almenningur láti til sín heyra um þessi mál og krefjist úrbóta.

lagi fengjust til starfa þeir menn sem starfsfólkið treystir best.

Samfara þessu þyrfti einnig að tryggja starfsfólkinu rétt til að víkja frá þeim stjórnendum sem sinna illa sínu starfi.

Þetta er ekki ný hugmynd en hún hefur eðlilega ekki átt upp á pallborðið hjá stjórnmálaflokkunum.

## Aðför ríkisvaldsins að Vélskólanum mótmælt

framhald af forsíðu

Frá kennurum

Við Vélskóla Íslands ríkir nú ófremdarástand vegna áratuga áhugaleysis yfirvalda. Er nú svo komið að skólinn er að ýmsu leyti vanbúinn til að fullnægja hlutverki sínu. Okkur kennurum finnst, að hinn gegndarlausi niðurskurður á fjármagni til skólans og mikið áhugaleysi um velferð hans, geti varla borgað sig. Viljum við benda á að nemendum þessa skóla eru fengin í hendur tæki, sem nema milljörðum að verðmæti og minnstu mistök, sem stafa af vankunnáttu, kosta margfalt meir en nemur fjárveitingu til skólans.

Í þessu sambandi viljum við taka fram eftirfarandi:

1. Vegna peningaleysis er nú svo komið, að skólinn er orðinn langt á eftir með tækjabúnað og kennsluaðstöðu. miðað við það sem lágmark er talið í sambærilegum skólum á Norðurlöndum. Kveður svo rammt að þessu að ekki hefur einu sinni fengist fjármagn til þess að taka í notkun vélar, sem skólanum voru gefnar fyrir tveimur árum.
2. Af 30 kennurum skólans með fulla kennsluskyldu eru 9 lausráðnir og hafa nokkrir verið það í 6 ár. Þetta hlutfall er mun hærra en við aðra framhaldsskóla. Við teljum skilyrðislaust að setja eigi viðkomandi kennara í fastar stöður við skólann Skólinn má ekki við því að missa vana og hæfa kennara hvað eftir annað vegna þessa
3. Þrátt fyrir ítrekaðar óskir um mötuneyti handa kennurum. sést ekki hilla undir það Við teljum aðstöðu vera fyrir hendi í húsnæði því sem Hótel- og veitingaskóli Íslands hafði áður til umráða. Í hluta af húsnæði þessu er nú rekið mötuneyti nemenda. - Það ætti ekki að þurfa að tíunda að hér er mikið réttlætismál á ferðinni. Bæði er núverand ástand skýlsust brot á kjarasamningum. og varla þarf að taka það fram. að menn sem kenna frá 8 fyrir hádegi til kl 15:30 e. h. þurfa heilsu sinnar vegna að fá mat. Um mörg undanfarin ár hefur verið talað um þetta mál fyrir daufum eyrum og una kennarar þessu ástandi ekki lengur.

## Varið Land og tónlistin í útvarpinu

Plata herstöðvaandstæðinga. Eitt verð ég að segja þér, hefur valdið herstöðvasinnum úr röðum Varins lands ómældum þjáningum og andvökum, ef marka má viðbrögð eins oddvita þeirra Hreggviðs Jónssonar.

Hann hefur opinberlega kvartað undan flutningi laga af plötunni í útvarpi og telur það ekki samræmast hlutleysi útvarpsins

Í bréfi til útvarpsráðs segir hann að tónlist sem þessi geti komið af stað múgæsingu á borð við hreyfingu nasista í Þýskalandi.

Síðan hefur verið gerð könnun og kom í ljós að lög af plötu Heimavarnarliðsins hafa oftar verið spiluð en lög af plötu Brunaliðsins en þær komu út á svipuðum tíma.

Það er talin sönnun þess að hér sé hlutleysi útvarps brotið.

Þeim dettur ekki í hug að ástæðan sé að plata Heimavarnarliðsins sé hreinlega betri og vinsælli.

Bak við þetta rykský grillir hins vegar í þá ósk herstöðvasinna að útiloka allar skoðanir andstæðinga sinna úr ríkisfjölmiðlum.

Þeir eru nefnilega í þeirri neyðarlegu aðstöðu að geta ekki gert sömu hluti og herstöðvaandstæðingar. Þeir geta ekki. eða öllu heldur þora ekki. að semja lög og ljóð hernum til dýrðar og engar röksemdir þeirra þola dagsbirtuna nema gamla rússagrýlan. Þeir vilja þess vegna þegja um herstöðvamálið.

En herstöðvaandstæðingar njóta þess að þeirra málstaður er réttlátur og munu því svo sannarlega halda áfram að koma sínum röksendum á farmfæri. Umræðan er þeim í hag.

## Friðrik Sophusson og þjóðin

Sjálfstæðisflokkurinn er greinilega að búa sig undir að vinna stóran sigur í kosningunum ef af verður. Nýjasta kosningaslagorð íhaldsins er "að kalla einn flokk til ábyrgðar".

Sem betur fer eru litlar líkur á að þessi ósk þeirra rætist.

Á hinn bóginn er ljóst að ýmsir íhaldsmenn eru illa haldnir af þessari óskhyggju.

Friðrik Sophusson sagði nýlega í viðtali við Vísi að íhaldið fengi 47% atkvæða. Síðan sagði hann orðrétt: "Það er greinilegt að þjóðin er tilbúin til að gefa einum flokki tækifæri til að spreyta sig og kalla einn flokk til ábyrgðar í stjórn þessa þjóðfélags."

Það er greinilegt að Friðrik og hinir íhaldsmennirnir hafa gott samband við þjóðina. Það er kannski óþarfi að kjósa.

## Friðrik Sófusson og tannpínan

Friðrik Sófusson líkti verðbólgunni nýlega við tannpínu. Það þyrfti sársaukamikla en skjóta aðgerð og svo yrði allt gott. Hann átti við að íhaldið vildi leika hlutverk tannlæknisins.

Hugsið ykkur hvernig það verður þegar Sjálfstæðisflokkurinn verður orðinn tannlæknir, með Alþýðuflokkinn sem klíníkdömu og fer að rífa tennurnar burt og setja falskar í staðinn.

Og þá fyrst fer um sjúklinginn þegar hann fær að sjá reikninginn

## Til lesenda Stéttabaráttunnar

Þrátt fyrir góð orð í síðasta tölublaði Stéttabaráttunnar. hefur enn orðið dráttur á útgáfu hennar. Stafar þetta af þem langa tíma er tekið hefur að komkoma upp prentaðstöðu blaðsins. Þar urðu ólíkt fleiri ljón á veginum en reiknað var með. En nú sér fyrir endann á því og vonum við að lesendur muni brátt verða varir við það í bættri útgáfu.

# Kína leiðréttir þjóðarbúskap sinn

Kínverjar eru nú að hefja 3ja ára áætlun um að leiðrétta, endurskipuleggja, styrkja og efla þjóðarbúskapinn. Þetta er nauðsynlegt til þess að hafa komið í kring nýtískunaráætlun þjóðarinnar árið 2000.

Þessi fyriræltun var rædd og samþykkt á fimmta þjóðþinginu sem haldið var í júní 1979 í Beijing (Peking).

Þjóðarbúskapur Kína hefur verið efldur mjög eftir fall fjórmenningaklíkunnar 1976. Síðast liðið ár náði heildar kornframleiðslan metinu 304.750.000 lestir. 1977 jókst vergt verðmæti iðnaðarframleiðslu um 14,3% miðað við 1976, og 1978 var aukningin 13,5% miðað við árið 1977.

Þrátt fyrir miklar framfarir er enn þörf mikils átaks til að yfirstíga hin alvarlegu áhrif af spellvirkjum Lín Bíaó og fjórmenningaklíkunnar. Kína hefur ekki að fullu leiðrétt alvarlegt misræmi í þjóðarbúskap sínum. sérstaklega misræmið milli iðnaðar og landbúnaðar, milli eldsneytis- og orkuiðnaðar og annara iðngreina.

Leiðrétting þýðir samkvæmt ræðu Húa Gúofengs á þjóðþinginu að gert sé yfirvegað átak til að leiðrétta alvarlegt ósamræmi og til að skapa nokkurn veginn góð hlutföll milli vaxtar í landbúnaði og léttaiðnaði og ýmsum iðnaðargreinum og halda réttu hlutfalli auðmögnunar og neyslu

Á tímabili leiðréttingarinnar mun Kína fyrst herða á framleiðsluaukningu í landbúnaði til að fá fram sæmilegt jafnvægi milli aukningar kornframleiðslu og annarar landbúnaðar- og skyldrar framleiðslu annars vegar og fólksfjölda og iðnaðar hins vegar. Ríkisstjórnin mun hækka kaupverð á landbúnaðarvörum og skyldum vörum og lækka eða fella niður skatta á stöðum þar sem efnahagsaðstæður eru slæmar. Frá því sumarkorn kemur á markaðinn 1979, mun kaupverð ríkisins á korni hækka um 20% og á korni sem er umfram áætluð mörk mun verðið hækka um 50% fram yfir hið nýja verð. Kaupverð á 18 mikilvægum landbúnaðarvörum og skyldum vörum, þar á meðal korni, baðmull og olíuríkum plöntum mun hækka til jafnaðar um 24,8%. Hlutfall fjárfestingar ríkisins í landbúnaði hefur hækkað úr 10,7%. 1978 í 14% 1979. Búist er við hæfilegri aukningu á næstu tveim árum.

Þessum ráðstöfunum er einkum ætlað að örva áhuga hinna 800 milljóna bænda landsins og skapa skilyrði fyrir því að herða á þróun landbúnaðarins, svo að hann geti fætt íbúa landsins sem eru meira en 900 milljónir og lagt léttaiðnaði og vefnaðariðnaði til hráefni og landbúnaðarvörur bæði á innlendan og erlendan markað.

Í iðnaði mun Kína hraða þróun léttaiðnaðar til að fullnægja þörfum þjóðarinnar og safna stærri sjóðum til uppbyggingar landsins. Hlutfall ríkisins í fjárfestingu í léttaiðnaði 1979 hækkar í 5,8% eða 0,4% umfram 1978. Kína mun stuðla að þróun þeirra greina léttaiðnaðar sem útheimta tiltölulega litla fjárfestingu og skila skjótum árangri. Áætlunin um leiðréttingu miðar að því að léttaiðnaður og vefnaðariðnaður þróist álíka hratt eða hraðar en þunga iðnaður.

Úr kínverskri ullarverksmiðju.



En það að leggja áherslu á landbúnað og léttaiðnað mun samt ekki þýða það að vanrækja þungaiðnað. Engu að síður mun greinum í þungaiðnaði, kolum, olíu og orkuiðnaði, flutningum og samgönguþjónustu verða veittur forgangur, en þessar greinar eru veikir hlekkir í þjóðarbúskapnum. Á grundvelli afkasta á sviði eldsneytis, orku hráefna og hálfunninna vara mun úrvinnsluiðnaður einnig þróast.

Varðandi fjárfestingu munu þau mannvirki sem ekki eru bráðnauðsynleg eins og stendur eða skilyrði eru ekki fyrir verða stöðvuð svo hægt sé að byggja á sem skemmstum tíma þau mannvirki sem bráðnauðsynleg eru.

Almennt talað er markmið leiðréttingarinnar betri framþróun. Til dæmis var stálframleiðsla 1985 áætluð 60milljón lestir en hefur nú verið lækkuð til að tryggja meiri fjölbreytni og meiri gæði í iðnaðinum. Af sömu ástæðum mun Kína umbreyta eða skera niður nokkur af hinum hundruðum þúsunda fyrirtækja til að tryggja að þau sem framleiða gæðavörur með sparlegri notkun hráefna gangi fyrir fullum krafti. Þess vegna er leiðréttingin nauðsynleg og algerlega jákvæð ráðstöfun til að tryggja nýtískun.

Á tímabili leiðréttingarinnar á þjóðarbúskapnum mun Kína, eftir því sem framleiðslan eykst, smám saman bæta lífskjör þjóðarinnar. Hækkun á kaupverði landbúnaðarvara og annara skyldra, lækkun og niðurfelling landbúnaðarskatta á hinum fátækari svæðum svo og almenn þróun landbúnaðarins 1979 mun færa kínverskum bændum tekjuaukningu sem ekki á sér hliðstæðu og nemur 13 milljörðum júan (kring um 8 milljarðar US$)

Ráðgert er að borgarverkamenn í nokkrum greinum fái launahækkun 1979. Ríkið mun verja 3 milljörðum júan (kringum 1,9 milljarðar US$) til byggingar nýrra íbúðarhúsa. Staðbundin útgjöld til opinberrar þjónustu, menningar, skóla, heilsugæslu og annara velferðarmála munu einnig hækka frá árinu 1978

Það að draga úr fólksfjölgun er mikilvægur þáttur í leiðréttingu á þjóðarbúskap Kína. Ástæðan er sú að á þeim þrem áratugum sem liðnir eru frá stofnun Alþýðulýðveldisins hefur íbúunum fjölgað of ört (úr meira en 500 milljónun í meira en 900 milljónir). Hin hraða fólksfjölgun hefur orðið þung byrði bæði fyrir landið og fjölskyldurnar og valdið erfiðleikum varðandi áætlunina um nýtískun. Kínverska ríkisstjórnin hvetur nú hjón til að eignast ekki nema eitt barn. Kína gerir nú allt hugsanlegt til að draga úr fólksfjölguninni svo að hún komist niður í 10 af þúsundi 1979.

Jafnframt því að leiðrétta þjóðarbúskapinn mun Kína halda áfram að flytja inn nýtísku tækni og vélbúnað. Samfara því að flytja inn nýtísku tækni mun Kína ganga út frá raunverulegum aðstæðum þegar veittur er forgangur í skipulagningu. Öflun nýtísku tækni mun verða látin haldast í hendur við endurbætur á fyrirtækjum sem fyrir eru og verður að stuðla að því að gera landið hæfara til hönnunar og framleiðslu á vélbúnaði til iðnaðar. Áður en nýtísku tækni er flutt inn mun Kína hyggja að sinni eigin getu til að framleiða vélahluti og varahluti í innfluttan vélbúnað og getu sinni til að greiða fyrir slíkan búnað.

Húa Gúofeng forsætisráðherra lýsti yfir á fimmta þjóðþinginu: "Bæði á hinu þriggja ára tímabili efnahagslegrar leiðréttingar og á árunum þar á eftir munum við beita okkur ákveðið að því að þróa utanríkisverslunina, færa út efnahagsleg samskipti og skipta á tæknikunnáttu við önnur lönd og viðhafa ýmsar hentugar aðferðir sem nú tíðkast í alþjóðlegum viðskiptum, til að hagnýta lánamöguleika erlendis. Þetta er ákveðin og mikilvæg stefna stjórnar okkar!"

Þörf er risaátaka til að hrinda í framkvæmd öllum markmiðum í sambandi við pólitík hins þriggja ára tímabils. Eftir að fjórmenningaklíkan var kveðin niður er pólitískt ástand í Kína orðið stöðugt og hinar 900 milljónir kínverja eru ákveðnar í að framkvæma nýtískun lands síns. Eldmóður fjöldans er hvarvetna vakinn. Hann leggur hart að sér til að vinna algeran sigur í fyrstu orustunni fyrir því að Kína verði orðið nýtískulegt land um aldamót.

(Grein eftir Da Guang í Fréttir frá Kína)

Shi Yun



Vísindamenn skoða líkan af nýjum hraðal.



## ÚR BARÁTTUNNI

### Vaxtabreytingin

Í blöðum og öðrum fjölmiðlum er mjög reynt að telja fólki trú um að vaxtabreytingarnar sem nú er verið að gera þýði hagstæðari vaxtakjör fyrir lánþega.

Breytingarnar felast sem kunnugt er í því að vextir eru lækkaðir niður í um 2% en lán eru þess í stað vísitölutryggð allt að 100%.

Það gefur hins vegar auga leið að þessi kjör eru verri fyrir launþega. Þeir verða að greiða fulla verðtryggingu á lánum með kaupi sínu sem aðeins að hluta til er verðtryggt.

Með þessum nýju kjörum er verið að hækka vexti enda hefur þetta verið kallað raunvaxtastefna.

Þetta hefur verið viðurkennt af stjórnum ýmissa lánasjóða sem hafa tekið upp hina nýju stefnu. Það er nefnilega alls staðar gert ráð fyrir því að tekjur sjóðanna aukist við breytinguna.

framhald af baksíðu

### ÖFLUGAR AÐGERÐIR HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

setið þar nokkra stund bað það um að hliðið yrði opnað svo hægt væri að komast út aftur. Var það gert en fólkið yfirgaf þó ekki völlinn fyrr en lögreglan hafði skilað tveim piltum sem hún handtók. Reyndi yfirmaður lögreglunnar fyrst að ljúga því að piltunum hefði verið sleppt en hikstaði á að segja hvar og hvenær. Þegar honum var svo bent á að lögreglumenn sem ekki heyrðu í honum hefðu sagt að piltarnir væru enn í haldi "athugaði hann málið" og afhenti síðan piltana. Fór þá fólkið út og lokaði hliðunum á eftir sér.

Verða þessar aðgerðir að teljast í alla staði mjög vel heppnaðar. Herstöðvaandstæðingar komust inn á völlinn og sluppu við árásir lögreglunnar.

### Hvaleyrarholtsgangan

Lokaaðgerðirnar voru svo kröfuganga frá Hvaleyrarholti með fundum í Hafnarfirði, Kópavogi og í Reykjavík.
Um 500 manns hófu gönguna í slagveðurs roki og rigningu. Skánaði veðrið nokkuð á leiðinni til Kópavogs en versnaði svo aftur og var gengið í grenjandi rigningu um Reykjavík. Hefur veðrið örugglega dregið mjög úr þátttöku en þó voru á þriðja þúsund manns í göngunni þá flest var.

Allar þessar aðgerðir eru góð byrjun á vetrarstarfi herstöðvaandstæðinga og nú er um að gera að halda áfram. Fyrstu helgina í nóvembermánuði er boðað til landsráðstefnu SHA og er mikilvægt að leggja þar grunn að öflugu vetrarstarfi.

## Áskriftargjöld 1979

VENJULEG ÁSKRIFT : KR.5000.-
BARÁTTU ÁSKRIFT : KR.7000.-
TIL ÚTLANDA : KR.13000.-
TIL ÖRYRKJA OG ELLILÍFEYRISÞEGA : KR.500.-



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
30. tbl. 8. árg. 23.10. 1979



STÉTTABARÁTTAN
- kemur út vikulega -
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

# Öflugar aðgerðir herstöðvaandstæðinga

Sem kunnugt er hafa herstöðva andstæðingar nú nýlokið þrennum öflugum aðgerðum. Fyrst var mótmælt komu NATO-herskipa hingað til lands, síðan var haldinn fundur á Keflavíkurflugvelli og loks var farið í Hvaleyrarholtsgöngu.

## Fundurinn á Keflavíkurflugvelli

Áður en fundurinn á Keflavíkurflugvelli hófst fóru nokkrir herstöðvaandstæðingar í forvitnisleiðangur til að kanna viðbúnað yfirvalda vegna aðgerðanna. Í ljós kom að vinnuhópar voru að gera við girðinguna umhverfis völlinn um morguninn og laga hliðin. Um hádegið barst skipun frá utanríkisráðuneytinu um að banna alla óviðkomandi umferð um völlinn og hleypa engum inn nema hann hefði tilskylda pappíra. Lentu ýmsir í erfiðleikum vegna þessa er þeir hugðust sækja fólk sem var að koma erlendis frá. Þurfti fólk í þeim erindagjörðum sérstaka uppáskrifaða pappíra er það skilaði við brottför af vellinum aftur.

Þá lentu einnig ýmsir starfsmenn á vellinum í vandræðum er þeir fóru í mat en höfðu gleymt vallarpassanum.

Það sem hvað mesta athygli vakti var þáttur slökkviliðsins á Keflavíkurflugvelli. Er það lið skipað íslenskum starfsmönnum en á launum hjá bandaríska hernum. Var liðið kallað út til þess að sprauta vatni á fólk ef yfirvöld teldu ástæðu til. Sást til slökkviliðsins albúins uppi á velli meðan fundurinn stóð yfir.

Það er vítavert athæfi að siga þannig slökkviliðinu á almenning. Slökkvilið og sjúkraflutningalið þarf ætíð að vera hlutlaust í átökum og sinna eingöngu því að hjálpa nauðstöddum í hvoru liði sem vera skal. Þessa grundvallarreglu þverbrýtur slökkviliðið á Keflavíkurflugvelli, að því er virðist vegna takmarkalausrar þjónkunar sinnar við bandaríska herinn. Til hvers fleira er það lið reiðubúið sem var reiðubúið að sprauta vatni úr háþrýstidælum á fólk á köldu haustkvöldi? Og það til þess að verja herstöð gegn vopnlausu fólki.

Þá var viðbúnaður lögreglunnar ekki síðri. Um 40-50 lögreglumenn komu á vettvang eftir að fólkið var komið innfyrir og enn fleiri sáust innar á vellinum með hjálma á höfði. Greinilegt var að ekki var ætlunin að gefa fólki kost á að vita við hverja væri að fást ef til átaka kæmi því svo til allir lögreglumennirnir voru ekki með sýnileg einkennisnúmer.

Ef til átaka kemur og einhver vill kæra framferði lögreglumanns geta þeir vísað hver á annan í skjóli númerisleysis sýns. Það er því greinilegt að lögreglan hugðist þarna grípa til einhverra þeirra verka sem hún þyrði ekki að svara fyrir.




Um sexhundruð manns tóku þátt í fundinum við hlið Keflavíkurflugvallar.

En það voru fleiri en lögreglan og slökkviliðið sem læddust um í skjóli myrkurs á Keflavíkurflugvelli þetta kvöld. Herlögreglan var líka kölluð út en aðrir kanar sendir í háttinn. Var þeim fyrirskipað að halda börnum sínum innan dyra og öll bæjarleyfi bönnuð. Kom tilkynning í kanaútvarpinu um að allir skyldu mættir við sjónvarpstæki sín kl 18:30 það kvöld vegna væntanlegrar tilkynningar.

Þegar herstöðvaandstæðingar mættu við Keflavíkurflugvöll komu þeir að lokuðum hliðum og nýstrekktum glansandi gaddavírsstrengjum. Var þá ákveðið að halda fundinn utan við hliðið.

Þar voru sungnir baráttusöngvar við mjög góðar undirtektir, hrópuð vígorð og Jón Kjartansson flutti skörulega ræðu. Að því loknu vildu menn sýna fram á að þeir létu ekki yfirvöld segja sér hvar og hvenær fólk héldi fund á sínu eigin landi. Tóku menn síg því til og kipptu netinu af einum girðingarstaurnum. Lögreglan fyllti skjótt upp í gatið en þá var girðingin bara klippt í sundur á öðrum stað og þar streymdi fólkið í gegn. Fór fólkið aðeins stutt inn fyrir hliðið og settist þar niður, söng og hrópaði vígorð. Er fólkið hafði

framhald á síðu 3

# Samstaða eða sundrung

framhald af forsíðu

an tíma, en því miður báru samtökin þrjú ekki gæfu til að nota það. Helsta ástæða þess að svo fór sem nú er orðið er að Fylkingin taldi sig ekki geta treyst því að Einingarsamtök kommúnista (EIKml) svikjust ekki aftan að þeim þegar verst stæði. Gömul togstreita þessara samtaka kom því í veg fyrir að raunverulegar sósíalískar raddir fengju að heyrast til jafns við aðrar í þessari kosningabaráttu. Þetta er þeim mun alvarlegra þegar þetta er skoðað í ljósi þess að "vinstri" stjórn er að kveðja. Nú verður enginn til að sýna fram á að þeir stjórnarhættir sem hún beitti áttu ekkert skylt við sósíalískar lausnir á vandamálunum, hvorki í innanlandsmálum né í útanríkismálum. Þetta hefði verið mögulegt ef smásamtökin á vinstri kanti stjórnmálanna hefðu getað sæst á að sameinast nú gegn ört vaxandi hægrisveiflu. Þessi hægri þróun á sér stað í öllum stjórnmálaflokkunum og ekki síður í svo kölluðum vinstri flokkum. Það ber því brýna nauðsyn til að spyrna við fótum gegn sameiginlegum óvini sem stöðugt vinnur á. Láta þarf minniháttar deilumál liggja á milli hluta og vinna að sameiningu þess róttæka kjarna sem einn getur veitt umtalsverða mótspyrnu gegn ört vaxandi hægri þróun.

Ef vel hefði til tekist hefði þetta getað markað upphafið að endurreisn róttækrar vinstrihreyfingar. Hún hefði jafnvel getað eignast talsmann á Alþingi. Talsmann sem talað hefði máli róttækra innan verkalýðshreyfingarinnar og hinna ýmsu fjöldahreyfinga eins og Samtaka herstöðvaandstæðinga sem eiga sér engan talsmann á þingi.

## Áskrift

Ég undirrit(aður/uð) óska eftir að gerast áskrifandi að STÉTTABARÁTTUNNI.

Nafn: ____________________

Heimili: ____________________

Sendist til: STÉTTABARÁTTAN
Pósthólf 1357
121 Reykjavík

# Kosningar í vetur

Alþýðuflokkurinn hefur nú myndað nýja stjórn með stuðningi Sjálfstæðisflokksins, rofið þing og boðað til kosninga í byrjun desembermánaðar.

Það vekur talsverða athygli að ýmsum þingmönnum íhaldsins virðist hafa verið kunnugt um fyrirætlanir kratanna.

Hitt vekur líka athygli að kratarnir, sem hafa mikið rætt um opnari málflutning, eru búnir að vera hálfan mánuð að pukrast með áform sín áður en tjöldunum var svipt frá.

Það er ljóst að þessar kosningar munu verða mjög harðar og úrslit síðustu kosninga sýna að fylgi flokkanna getur breyst verulega.

Framkoma Alþýðuflokksmanna vekur að vonum undrun og ýmsar spurningar. Þeir hafa líklega reiknað dæmið á þann veg að nú væri tækifæri fyrir þá til að fara í kosningar án þess að tapa miklu fylgi.

Þessi ríkisstjórn hefur ekki orðið vinsæl enda hefur hún svikið öll kosningaloforð sín og verið óþreytt við að lækka kaupmátt launafólks.

Kratarnir líta sjálfsagt svo á að fólk muni þakka þeim fyrir að losa okkur við þessa stjórn.

## Ætlaði AB að sprengja stjórnina

Sú saga hefur komist á kreik að Alþýðubandalagið hafi ætlað að rjúfa stjórnarsamstarfið en hinir kratarnir hafi orðið á undan.

Þeir neita þessu að sjálfsögðu en á hinn bóginn hafa þeir þegar hafið kosningaundirbúning með hótunum um að beita verkalýðshreyfingunni fyrir sig.

## Að græða eða stjórna landinu

Atburðir síðustu daga hafa sýnt enn betur eðli stjórnmálaflokkanna fjögurra sem komið hafa við sögu.

Markmið þeirra er alls ekki að stjórna landinu með hagsmuni fjöldans fyrir augum. Markmið þeirra er að græða sjálfir og fá aukin völd og áhrif.

Síðustu ríkisstjórnir hafa líka sýnt okkur fram á að enginn grundvallarmunur er á stefnu flokkanna.

## Kosningaslagur innan flokkanna

Sem fyrr sagði má búast við hörðum kosningum og tvísýnum úrslitum enda munu flokkarnir beita fyrir sig ýmsum hagsmunasamtökum, svo sem verkalýðsfélögum.

En baráttan verður ekki bara milli flokkanna. Hún verður einnig innan flokkanna.

Margir þingmenn munu draga sig í hlé fyrir næstu kosningar. Má þar nefna Gils Guðmundsson, Svövu Jakobsdóttur, Jónas Árnason, Eðvarð Sigurðsson og hugsanlega Halldór E. Sigurðsson og Jón Sólnes.

Þannig "losna" mörg örugg þingsæti og margir munu berjast um hituna.